Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

Ert þú áskrifandi að vikublaði verkafólks?

47. tbl. 7. árg. Stéttabaráttan 12.12.1978. verð kr. 100.-

# Verðlaun fyrir hvaða frið?

Óhætt má telja að sjaldan hafi úthlutun friðarverðlauna Nóbels, farið fram við öllu neyðarlegri aðstæður en nú. Sadat Egyptalandsforseti og Begin forsætisráðherra Ísrael hafa sameiginlega fengið verðlaun fyrir að semja um frið, sem þeir hafa reyndar ekki enn samið um...

Sú ákvörðun norska stórþingsins að veita þessum tveim herramönnum friðarverðlaunin, vakti þegar bæði furðu og andstöðu. Ýmsum þótti þetta vera frumhlaup, þar sem alls ekki var útséð um að friðarsamningar milli Egypta og Ísraela næðust, hvað þá hvort þeim fylgdi friður fyrir botni Miðjarðarhafs. Enn hefur ekki náðst samkomulag um endanlegt innihald samningsins og óvíst hvort svo verður.

Mörgum þótti líka óviðeigandi að hryðjuverkamaðurinn Begin hlyti friðarverðlaun, án þess einu sinni að hafa látið af hryðjuverkum sínum. Begin var í skæruliðasveitum síonista sem frömdu hryðjuverk á Palestínumönnum fyrir stofnun Ísraelsríkis og hann var því lengi eftirlýstur af Bretum sem glæpamaður. Og hryðjuverkin gagnvart palestínsku þjóðinni halda enn áfram.

Það er ekkert einsdæmi að friðarverðlaunin séu veitt stríðsglæpamönnum. Þannig fékk Kissinger friðarverðlaun fyrir að Bandaríkin skyldu gefast upp í Víetnam og svona fyrir siðasakir fékk utanríkisráðherra Norður - Víetnam verðlaunin líka, en hann neitaði að taka við þeim. Núna fær svo Begin verðlaun fyrir það eitt að lofa að hætta árásum á eitt af nágrannaríkjunum, þótt hann ítreki jafnframt að hann muni herja áfram á Palestínumenn.

Áform Ísraela með friðarsamningum við Egypta, eru hreint ekki þau að stuðla að neinum friði fyrir botni Miðjarðarhafsins. Þau eru þvert á móti að sundra aröbum, svo síonistar geti enn betur komið við árásar- og útþenslustefnu sinni gagnvart þeim. Ísraelar eru að reyna að kaupa sér frið á einum vígstöðum, til þess að geta einbeitt sér betur að öðrum, þ.e. Palestínumönnum Síonistar vilja fá frið til að kúga Palestínumenn.



Það er fyrst núna sem við gerum okkur grein fyrir því hvað það þýðir að vera flóttamenn.

Þegar þessi atriði eru höfð í huga, er eðlilegt að spurningin vakni: Fyrir hvaða frið eru friðarverðlaun Nóbels veitt?



*Indlandsbátarnir eru fyrstu stálbátar Bátalóns hf. og jafnframt stærsta nýsmíðin til þessa.*

# Aðalfundur F.J.N.

Miðvikudaginn 6. desember s.l. var haldinn framhaldsaðalfundur FJN(Félags járniðnaðarnema.). Var sæmileg mæting eða u.þ.b. 30 manns. Dagskrá fundarins var:. 1. Skýrsla stjórnar og lög félagsins. 2. Staðan í kjaramálum. 3. Kosning stjórnar. 4. Kynning á INSÍ. 5. Önnur mál.

Í skýrslu formanns kom m.a fram að áður en núverandi stjórn tók við forystu í félaginu hafi starf félagsins ekki verið upp á marga fiska. Sem baráttutæki járniðnaðarnema var það ekki til. Með tilkomu núverandi stjórnar hafa málin breyst mjög til batnaðar. Tekið var til við að vinna að almennilegri spjaldskrá yfir félaganna. Fá smiðjurnar til að borga gjöld þau til félagsins sem þeir hirða þó vikulega af iðnemunum. Barist hefur verið fyrir því að koma á virku trúnaðarmannakerfi innan félagsins á sem flestum vinnustöðum.

Að lokinni ræðu formanns voru reikningar félagsins teknir til umræðu. Kom þar fram að stjórn félagsins hefur greitt greitt 15.000 krónur til P.A.C (Pan Africanist Congress.sem heyr baráttu fyrir frelsi til handa blökkumönnum í Azaníu þ.e.a.s. Suður-Afríku). Reis þegar upp einn fundarmanna og mótmælti harðlega þessum stuðningi við P.A.C (kr.5.000) á þeirri forsendu að ekki væri rétt að stjórnin ákvæði þetta án samþykkis félagsfundar. Lagði hann fram í þessu sambandi eftirfarandi tillögu:. ". Framhaldsaðalfundur félags járniðnaðarnema ályktar þess efnis að stjórn félagsins sé óheimilt að ákveða það einhliða einhliða að styðja einhverjar ákveðnar frelsishreyfingar án samþykkis félagsfundar". Jafnframt lýsti flutningsmaður því yfir að hann styddi P.A.C en hæpið væri að almennir félagar vissu hvað P.A.C stæði fyrir auk þess væru þessi vinnubrögð stjórnarinnar ámælisverð. Reynduð sumir fundarmenn að klóra í bakkann en urðu að viðurkenna

Framhald á síðu 5.

# Launamisrétti hjá ríkinu

Jafnrétti til starfs og launa hefur mikið verið til umræðu undanfarin ár. Fólki var orðið það nokkurn veginn ljóst að það gat ekki valið hvaða starf sem var og jafnvel að mikill launamismunur var hjá fólki sem vann sömu störf. Í þessum tilfellum var aðallega um að ræða misrétti milli kynjanna. Eftir nokkura ára baráttu um þessi mál, sá alþingi sér ekki annað fært en að bua til lög þess efnis að jafnrétti til starfs og launa yrði komið á í reynd. Til þess að sjá um að lögum þessum yrði framfylgt var Jafnréttisráð stofnað. Ráð þetta hefur ekkert framkvæmdavald, þannig að í raun er það einskis nýtt. En úr því að lögin eru til, hlýtur þá ekki allt að vera í fínasta lagi?

Við skulum aðeins athuga starfsmenn ríkisspítalanna (vaktmenn, gæslumenn og starfsstúlkur) sem tilheyra Sókn og BSRB.

Sem dæmi getum við tekið stofnanir eins og Kópavogshælið og Kleppsspítalann. Á báðum stöðunum vinna konur og karlar hlið við hlið, nákvæmlega sömu störfin. Karlmenn eru titlaðir vaktmenn eða gæslumenn og eru í BSRB en konurnar eru starfsstúlkur og eru í Sókn. Nú skyldu menn ætla að þau hefðu sömu laun, úr því að þau vinna sömu störf en svo er ekki. Mikill munur er á þessum félögum og skulu nú nefnd nokkur dæmi því til sönnunar.

Þeir starfsmenn sem eru í BSRB taka flestir laun samkvæmt 5. og 6. launaflokki. Laun þeirra eru því frá kr. 172.867.- í 5.fl. 1.þrep og upp í kr. 201.002.- í 6.fl. 3. þrep. Mánaðarlaun starfsstúlkna eru hins vegar frá kr. 153.580 til kr. 163.141.

Vaktaálag BSRB-manna er kr. 475 á tímann á kvöldvöktum og kr. 642 á tímann á næturvöktum. Vaktaálag Sóknarkvenna er kr. 311 á tímann á öllum vöktum, en vökukonur sem vinna aðeins á næturvöktum fá þó kr. 376 á tímann í vaktaálag.

Þá teljast laugardagar ekki að fullu frídagar hjá Sókn eins og hjá öðrum félögum. Þar reiknast vaktaálag ekki fyrr en eftir hádegi og er því greitt fyrir laugardagsmorgna eins og virkum dögum. Mismunur á yfirvinnu greiðslum er í samræmi við annað. Yfirvinnukaup BSRB-manna er sem svarar 1% af mánaðarlaunum fyrir hvern tíma, en hjá sókn er það 40% á dagvinnu fyrir fyrstu 2 tímana og 80% fyrir það sem umfram er.

Þá er lífeyrissjóður Sóknar ekki verðtryggður eins og hjá BSRB.

Framhald á síðu 2.

LEIÐARI

# Lýðræði íhaldsins

Það hefur vart farið fram hjá neinum að út er komin bókin Félagi Jesús. Þetta mun vera söguleg skáldsaga um Jesús þar sem mönnum og málefnum er lýst á nokkuð annan hátt en í kristinfræðitímum í íslenskum grunnskóla. Jesús er lýst sem uppreisnarmanni gegn yfirráðum rómverja í Palestínu. Það er út af fyrir sig ekki nýlunda; minna má á bók Gunnars Benediktssonar Æfi Jesús frá Nasaret. Af höfundi er þessi bók hugsuð sem mótvægi gegn glansmyndinni af hinum yfirnáttúrlega Jesúm sem nú er haldið að börnum.

Það er því ekki undarlegt að bókin hljóti slæmar móttökur þeirra sem hafa lifibrauð sitt af fyrrnefndum glansmyndasögum, þ.e. þjóðkirkjuprestum og sértrúarsafnaðarfólki ýmis konar. Enda hafa forystumenn helstu sértrúarsafnaða sameinast í "heilaga fordæmingu" á þessari ritsmíð. Kristnir söfnuðir hafa löngum haft það hlutverk að verja ríkjandi þjóðskipulag og halda fólki frá "óæskilegum skoðunum". Sýnu athyglisverðari eru viðbrögð ýmissa íhaldsmanna. Á alþingi kvaddi frú Ragnhildur Helgadóttir sér hljóðs og mælti gegn bókinni. Fleiri íhaldsþingmenn tóku einnig að sér "vörn fyrir lýðræðið og kristindóminn". Ef röksemdir þeirra eru dregnar saman þá hljóðar kjarni þeirra svo: Bókin er trúarníð, höfundurinn er kommúnisti. Niðurstaða sjálfskipaðra verjenda lýðræðisins er síðan sú að svona bók megi ekki gefa út og óforsvaranlegt sé að styrkja slíka ritsmíð opinberum styrkjum.

Afstaða íhaldsins er ljós og skýr. Prentfrelsið á að hafa á sér nokkurn fyrirvara. Íhaldið vill fá að ritskoða íslenskt útgáfuefni. Allt sem ekki er í beinu samræmi við skoðanir auðherranna á Íslandi flokkast að þeirra mati undir kommúnisma og ætti því að ritskoðast burt. Íhaldið vill að jafnframt þvi sem yfirvöld veiti styrki til rithöfunda og þýðenda, öðlist þau rétt til að ritskoða skrif þeirra. Það er athyglisvert að þessir sjálfskipuðu verjendur lýðræðis og kristindóms úr röðum íhaldsins eru þeir sömu og fordæma kúgun rithöfunda í ýmsum heimshornum.

Við þurfum varla að fara lengra en til Moskvu til að sjá skoðanir þessara íhaldsmanna í framkvæmd.

Þessi tilhneiging íhaldsins þarf þó ekki að koma á óvart. Ófá dæmi eru til um ritskoðunartilhneigingar þess gegn um árin. Við getum nefnt hér dæmi um rithöfunda eins og Gunnar Benediktsson og Þórberg Þórðarson sem fengu báðir að kynnast lýðræðisást íhaldsins. Og hver man ekki eftir öllu fjaðrafokinu sem varð þegar Olga Guðrún las í morgunstund barnanna, söguna um uppreisnina á barnaheimilinu. Þá kröfðust íhaldsmenn að blátt bann yrði lagt við slíkum áróðri í útvarpi. Ekki hafa þó heyrst raddir um að meina íhaldsmanninum Hannesi Gissurarsyni aðgang að útvarpi. Varla telst málflutningur hans hlutlaus.

Virðing íhaldsins. fyrir skoðanafrelsi hefur einnig komið ljóslega fram í óhróðursskrifum þess um kennara. Í skólum landsins sá íhaldið kommúnistaáróður í annari hverri skólastofu. Og á síðum Moggans komu fram raddir um atvinnubann á róttækt fólk, svipað og nú tíðkast í V-Þýskalandi.

Það telst hins vegar ekki óleyfilegur áróður þegar börnum er innrætt fordómafull trúarskoðun og borgaralegar hugmyndir um söguna og þjóðfélagið.

Enda er baráttumál íhaldsins ekki hlutleysi í fjölmiðlum eða skólum. Nei, markmiðið er það að þeirra eigin áróður sé einráður.

Allar skoðanir eiga rétt á að koma fram fyrir almenning, svo fólk geti kynnt sér allar hliðar málanna. Annað er ósamrýmanlegt lýðræðinu. Því er tími til kominn að einokun íhaldsins í skólum landsins og fjölmiðlum verði afnumin.

Framhald af baksíðu

# Fjármál stúdenta

að í fyrra samkvæmt fyrirmælum eldvarnar-og heilbrigðiseftirlitsins og var þá veitt 25 miljóna kr. lán til að bæta úr brýnustu þörf. Í ár er þessum stofnunum ætlað 25 miljónir til að borga þetta lán þannig að ekkert er eftir til að klára framkvæmdir.

Hjónagarðar fá kr. 0 til að borga skuldir vegna byggingaframkvæmda. Því spyrja námsmenn hvað eru þessir menn að hugsa?

## Fundurinn.

Fundur um lánasjóðinn var haldinn í Félagsstofnun stúdenta á miðvikudag s.l. Þar mættu til að sitja fyrir svörum fjármálaráðherra og fulltrúar annarra flokka á Alþingi Einnig var stúdentinn og Alþingismaðurinn Gunnlaugur Stefánsson mættur.

Bolli Héðinsson form. stúdentaráðs rakti fjárhagsstöðu stúdenta og benti á að á þessum fundi vildu stúdentar fá marktæk svör við fyrirspurnum.

Þorlákur Morthens frá Myndlista og handíðaskóla benti á að námsmenn viðurkenna ekkert sem heitir offjölgun menntamanna því menntun væri mannréttindi.

Kjartan Ólafsson alþm. byrjaði á því að skila kveðju til fundarins frá Ragnari Arnalds. Kjartan lofaði síðan öllu fögru og sagðist ætla að bera fram fjárhagsbeiðni okkar á Alþingi.

Bragi Níelsson alþm. lofaði að flytja okkar mál inn í þingflokkinn en ekki lengra. Hann fór svo að snúa upp á sig og sagði að lánin væru notuð til að fara í sólarlandsferðir og kaupa hljómtæki. En svo venti hann sínu kvæði í kross og sagði að til þess að fá almennileg lán yrðum við að halda uppi hávaða.

Tómas Árnason talaði næst og lýsti sjálfum sér sem skjóllausum og ætlaði ekki að reyna að skýla sér. Því næst gaf hann þær upplýsingar að hann ætti fjóra stráka og sagðist vita til þess að lánin væru ekki notuð til brýnustu þarfa og benti á að sala á hljómflutningstækjum ryki upp þegar lánin væru borguð út.

Friðrik Sophusson alþm. rakti ræðu Ragnars Arnalds sem hann hafði einhvern tíma haldið og síðan las Friðrik upp lög en sagði ekkert í raun. Friðrik benti síðan á að engum kæmi við hvernig lánum væri varið því engin fengi lán án þess að verðskulda þau.

Gunnlaugur Stefánsson alþm. benti á að nám væri fullt starf.

Bragi Guðbrandsson form. SÍNE tók fyrir málflutning fyrri ræðumanns og benti á hve marklaus hann væri og ónákvæmur. Hann krafðist þess að fá skýr og greinargóð svör.

Þegar Tómas var spurður um hvort ætti ekki að taka tillit til barna svaraði hann því til að hann stefndi að því að borga 85% lán. Þá varð almennur hlátur í salnum. Það var auðséð að fjármálaráðherra var ekki inni í reglum lánasjóðsins.

Bragi Níelsson og Tómas Árnason voru manna fáfróðastir um lánamálin og nám yfirleitt. Einnig kom fram hjá þeim smáborgaralegasti hugsunargangurinn þegar þeir fór að gera einstök dæmi að algildum sannleik. Sögðust þeir vita um dæmi um misnotkun lána og reyndu þannig að afsaka framkomu ríkisvaldsins

Það kom fram í máli Friðriks að hann teldi að ríkið þyrfti að stjórna betur hvernig fjármagninu væri eytt innan háskólans. Þessu var að vísu ekki svarað þarna enda snérust málin ekki um háskólann almennt.

Ekki er hægt að segja til um hve áhrif þessi fundur getur háft en hann afhjúpaði smáborgaraleg viðhorf og sýndi mjög vel að þessir alþingismenn eru fáfróðir um þau mál sem þeir fjalla um. Reyndu allir þingmenn að skjalla fundargesti þegar þeir fundu tómlæti þeirra.







... í stuttu máli

FUNDUR UM MÁLEFNI AFRÍKU HALDINN Á VEGUM FÉLAGS ÍSLENSKRA STÚDENTA Í OSLÓ OG NÁGRENNI 0.1.11.1978 ÁLYKTAR:

Okkur hefur borist til eyrna að Dagblaðið í Reykjavík hafi slegið upp sem forsíðufrétt bréfi frá einum af málaliðum hinnar ólöglegu Smithstjórnar í Zimbabve (Ródesíu). Málaliði þessi, sem er af íslenskum uppruna lýsir fjálglega hvernig koma beri fram við þá "innfæddu". Blýið og jörðin geymi þá best-og þar að auki séu þeir svo fjárans hræddir.

Dagblaðið nefnir ekki að Zimbabve er hernumið af hinni ólöglegu stjórn Smiths og að barátta Zimbabvönsku þjóðarinnar fyrir sjálfstæði og sjálfræði er að fullu réttmæt og nýtur víðtæks stuðnings víða um heim á meðan ekkert land hefur einu sinni viðurkennt Smithstjórnina þau 13 ár sem hún hefur verið við lýði. Með þessum fréttaflutningi skipar Dagblaðið sér í lið allra afturhaldssömustu nýlendustefnu í heiminum.

Vilji Dagblaðið hreinsa æru sína í augum and-heimsvaldasinna og alls ærlegs fólks á Íslandi er það siðferðisleg skylda þess að skipuleggja og á annan hátt leggja lið söfnun peninga og /eða annarra hjálpargagna til "Patriotic Front" sem eru þau samtök sem skipuleggja og leiða baráttu Zimbabvemanna gegn hinni ólöglegu stjórn Smiths.

Framhald af forsíðu.
Launamisrétti hjá ríkinu

## Á Sókn að ganga í BSRB?

Undanfarið hafa orðið nokkrar umræður innan Sóknar um framtíð félagsins og hvort ekki sé eðlilegt að Sóknarstúlkur séu í BSRB þar sem þær vinna flestar a ríkisstofnunum og fá laun sín greidd frá ríkinu. Hefur í því sambandi verið rætt um að Sókn, ásamt gæslumönnum og vaktmönnum stofni sérstakt félag innan SFR ( Starfsmannafélags Ríkisstofnana ).

Mótbárur gegn þessu hafa helstar verið þær að BSRB hafi ekki verkfallsrétt og að félagsfundir þar séu fáir. Sókn hefur hins vegar ekki tekið þátt í verkföllum ASÍ og lýðræðið í félaginu er ekki til að státa af því. Það er auk þess ekkert erfiðara að krefjast félagsfunda í aðildarfélögum BSRB en ASÍ.

Eðlilegt verður að teljast að allir starfsmenn ríkisins njóti sömu réttinda og því er rökrétt að starfsstúlkur séu í BSRB. Það leysir hins vegar engan vanda að Sókn gangi í BSRB og og haldi þar sömu starfsháttum Fyrst og fremst þarf að gera félagið að öflugu baráttutæki félagsmanna sinna. Allar aðgerðir verða að byggja á vilja félagsmanna sjálfra og virkri baráttu þeirra.

HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl. 16:00 - 18:30.

AKUREYRI
Jón Atli Játvarðsson
Skarðshlíð 30.

KEFLAVÍK
Einar Jónsson
Sólvallagötu 40c.

HAFNARFJÖRÐUR
Fjóla Rögnvaldsdóttir
Reykjavíkurvegi 24.

HELLISSANDUR
Sigfús Almarsson
Hellisbraut 10.

HORNAFJÖRÐUR
Margrét Einarsdóttir
Silfurbraut 2

SVÍÞJÓÐ
Kristján L. Guðlaugsson
Kemnärsvägen 11 N:220
222 46 LUND



# Íran: Byltingarbarátta gegn keisaraklíkunni og heimsvaldastefnunni

Shah og heimsvaldasinnar USA orsaka hörmungar íranskrar alþýðu.

Uppreisnaröldurnar sem skekið hafa auðvaldskerfi Írans á s.l. ári eru þær stærstu og skæðustu undanfarin 25 ár. Allar byggingar sem standa fyrir hagsmunum íranskeisara (Shah) eru nú undir 24ra tíma daglegri vörslu vopnaðra hermanna en eru þó enn undir árásum fjöldahreyfinga fólksins í Íran. Lögreglustöðvar, ríkisstjórnarbyggingar þar með taldar byggingar fasistaflokks keisarans, bandarískir bankar og skrifstofur auðhringa, klámkvikmyndahús, spilavíti, jafnvel Pepsi vörubílar hafa verið brenndir til ösku.

"Konungur konunga, drottnari drottnara, skuggi Guðs:Shah" er það sem íranskeisari nefnir sig. Harðstjórn hans hefur nú afhjúpað sitt sanna eðli, ekki einungis fyrir 35 miljónum íbúa Írans heldur fyrir ótöldum miljónum um gjörvallan heim. Hin hryllilegu morð á hátt á 20.000 manns í Íran undanfarnar vikur, þar af 750 brenndir inni, hafa sýnt svo ekki verður um villst fram á að heimsvaldasinnarnir svífast einskis til að vernda hagsmuni sína og gróðamöguleika. Toppþjálfað herlið íranskeisara (af bandarískum hernaðarráðgjöfum og tæknimönnum, auk þess sem yfirmenn eru þjálfaðir í Bandaríkjunum) búið bandarískum og sovéskum vopnum af fullkomnustu gerð hefur fengið fyrirskipanir um að "skjóta til að drepa".

SAVAK (leynilögreglan)

Ekkert fyrirbæri er jafn hatað í Íran sem hið fasíska leynilögreglulið ríkisins SAVAK. SAVAK var stofnað af bandarískum heimsvaldasinnum í samvinnu við keisarann til að halda niðri íranskri alþýðu.

SAVAK á uppruna sinn á 5. áratugnum þegar heimsvaldasinnar USA voru að undirbúa yfirtöku sína í Íran úr höndum keppinauta sinna bresku heimsvaldasinnanna. 19. ágúst 1953 þegar leynilögregla USA, Central Intelligence Agency (CIA) framdi sitt blóðuga valdarán gegn hinum vinsæla Mossadegh, voru SAVAK-menn fremstir í flokki.

Til að halda Shah við völd og til verndar hagsmunum USA auðhringa hafa heimsvaldasinnarnir haldið áfram að þjálfa, vopna og styrkja SAVAK. Þúsundir af 55.000 SAVAK meðlimum hafa verið þjálfaðir af CIA á herstöðvum og höfuðstöðvum CIA í Bandaríkjunum. SAVAK útsendarar starfa bæði innan og utan Íran í baráttu sinni gegn andstæðingum keisarans.

Hönd í hönd við CIA, innflytjendaeftirlitið og fylkislögreglu Bandaríkjanna hafa útsendarar SAVAK ráðist á félaga í íranska Stúdentasambandinu (ISA) og í þeim árásum hafa þúsundir verið handteknir, hundruðir verið barðir og mörgum verið hótað öllu illu um hvað gerist er þeir snúa aftur heim til Írans. SAVAK skipulagði íkveikjuna í Abadan kvikmyndahúsinu er kostaði um 900 manns lífið.



"Engin getur yfirbugað mig- Ég hef valdið". segir keisarinn. "Keisarinn er yfirbugaður" Ef þú spyrð hann hvað komi næst yppir hann öxlum og hristir hausinn.

ISA - Óvinir Shah um víða veröld.

Í sjónvarpsfréttum 15. nóv. 1977 sáu bandaríkjamenn einstaka sjón: Jimmy Carter og íranskeisari standa saman í Rósagarði Hvíta hússins og gráta. Þeir höfðu fengið bragð af táragasinu sem þeir höfðu fyrirskipað að beitt yrði gegn írönskum stúdentum sem mótmæltu heimsókn Shah til USA fyrir framan Hvíta húsið.

Á þeim degi börðust 5000 íranir í réttlátri baráttu gegn lögregluliði Washinton og nokkurra hundruða manna leiguliði keisarasinna (aðallega íranskir hermenn sem verið var að þjálfa í USA og SAVAK útsendarar). Írönsku stúdentarnir unnu mikinn sigur þann dag - hernaðarlega og pólitískt - og vöktu athygli miljóna á kröfum sínum: "Niður með Shah. Niður með heimsvaldastefnu USA!" Mótmælin voru skipulögð af ISA í USA. Um alla veröld er ISA að afhjúpa blóðuga stjórn íranskeisara og húsbænda hans USA auðherranna.

Shah nefnir stúdentana "hættulega hryðjuverkamenn" og árið 1976 sagði hann: "Það eru aðeins 60 manns í öllum heiminum sem eru andstæðingar Shah...þeir ferðast frá Washington og París og Munch en...til að láta líta svo út sem öll þessi andstaða sé gegn Shah". Eftir það sem á hefur gengið undanfarið ár, trúir enginn slíkum rógi.

Eftir því sem stéttabaráttan harðnar í Íran eykst árásir á ISA. Því það síðasta sem heimsvaldasinnarnir vilja er að alþýðan í Bandaríkjunum og öðrum auðvaldsríkjum læri af írönunum hvað nákvæmlega þeir sækjast eftir í Íran. Í Chicago, Houston, Los Angeles, Lexington og fleiri borgum Bandaríkjanna hefur lögreglan ráðist á meðlimi ISA og ameríska vini þeirra. En húsbændur þessara lögregluhunda sem hafa látið þá lausa, hafa aðeins tekið upp grjót til að missa það ofan á eigin fætur. ISA hefur snúið hverri árás á hendur því upp í enn meiri afhjúpun á drottnurunum í augum bandarísku þjóðarinnar. Barátta ISA hefur verið kyndill sem kveikt hefur í baráttuanda og stéttvísi í hugum fjölda bandaríkjamanna og snúið hug þeirra að baráttu marxista-lenínista.



Myndir þessar sýna lítinn hluta alls þess fólks sem tók þátt í mótmælaaðgerðunum gegn keisaranum 7. og 8. september síðastliðinn.

Orkukreppa eða gróðakreppa?

Fyrir heimsvaldasinna hefur Íran alltaf verið feitur biti að flá. 2/3 af þekktum olíulindum heimsins er í Íran og þrem nágrannaríkjum þess - Saudi Arabíu, Írak og Kuwait. Ekki nóg með magnið heldur hefur olían þaðan bestu eiginleikana og er auðveld í vinnslu. Hver græðir á þessum olíuauðlindum? Stóru bandarísku olíuauðhringarnir, Standard Oil, Texaco, Gulf og Mobil ráða nærri helming olíuframleiðslunnar í Íran, rétt eins og mestu af olíunni í öðrum Mið-Austurlöndum. Milli 1948-1960 t.d. tóku bandarísk fyrirtæki um 12,8 biljón dollara í gróða af Mið-Austurlandaolíu.

Við hlið olíugullnámanna hafa um 5000 önnur bandarísk fyrirtæki fjárfest í Íran - biljónum dollara. Vextirnir til baka í þessu landi eru allt upp til 50%, þökk sé heimsvaldastefnunni sem heldur verkalaununum á hungurstigi og vinnufyrirkomulagi í hörmungarástandi. Í Íran hafa fjárfest stórfyrirtæki s.s. Bank America, General Motors, Westinghouse, Allied Chemical, Goodyear og landbúnaðarauðhringar s.s. Jogn Deere og Dow Chemical. Íran er auk þess stærsti markaður fyrir bandaríska framleiðslu í Mið-Austurlöndum.

Kreppan sem hrjáir írönsku þjóðina er afleiðing takmarkalauss arðráns þessarra blóðsjúgandi heimsvaldasinna sem aldrei græða nógu mikið og alltaf vilja meira. Allsnægtirnar hafa hinir fáu - örbirgðina hefur fjöldinn.

Íran: bandarískur varðhundur í Mið-Austurlöndum.

Íran hefur mikilvægi fyrir bandarískt auðvald framyfir beinan gróða sem það stelur frá landinu. Keisarastjórnin er einn mikilvægasti útvörður til verndar ríkisdæmi Bandaríkjanna í Mið-Austrinu. Íran hefur sérstakt mikilvægi vegna legu sinnar að Sovétríkjunum í norðri. Líkt eins og Suður-Kórea, Brasilía, Ísrael, hefur Íran þjónað heimsvaldastefnu Bandaríkjanna og falið hana. Síðan 1972 seldi USA hergögn til Íran að andvirði 18 biljón dollara (Washington Post 18.9. 1977). Það er meira en nokkur önnur þjóð fær frá USA. Vestur-Evrópa hefur einnig selt Íran vopn fyrir biljónir. Hersveitir íranskeisara eru meðal þeirra stærstu í heimi og búnar fullkomnustu vopnum sem hægt er að fá, allt frá Phantom orustuflugvélum til orustuskipa búnum eldflaugum og flugmóðuskipa. Með tilliti til samninga um vopnainnflutning til Íran á komandi árum verður Íran bráðlega jafn vel vopnum búið og Vestur-Þýskaland. Vopnaframleiðslufyrirtæki slík sem Bell Helicopters og McDowell Douglas Aircraft hafa þúsundir af tæknimönnum sínum í landinu. 250 yfirmenn og fjöldi flugmanna eru þjálfaðir í Bandaríkjunum á hverju ári.

Meginástæðan fyrir því hve Bandaríkin leggja mikla áherslu á að Íran sé vel vopnum búið er ekki gróðinn af vopnasölu þó hann sé mikill. Ástæðan er hungrað heimsvaldaríki sem alls staðar reynir að krækja klónum í feita bita - ekki síst Íran. Þetta ríki er Sovétríkin sem áður var sósíalískt en breytti um á miðjum 6. áratugnum og er nú gráðugt auðvaldsríki.

Íran er staðsett í miðju baráttunnar milli risaveldanna sem stefnir í átt að III. heimsstyrjöldinni. Bæði stórveldin þarfnast olíunnar í Íran í baráttu sinni og ekki eingöngu þau heldur fær Vestur-Evrópa 60% olíu sinnar frá Mið-Austrinu og Japan 90%. Byssur sem stjórnað er af USA snúa að Sovét frá Íran í aðgerðum gegn US í Íran "vegna hættunnar sem Sovét stafaði af Bandarísk um áhrifum í Íran". Sovésku heimsvaldasinnarnir sem kalla sjálfa sig kommúnista hafa engan áhuga fyrir því að styðja byltingarbaráttuna gegn keisaranum í Íran enda eiga þeira fáa stuðningsmenn meðal byltingamanna þar. Aftur á móti hefur farið vel á með Shah og Sovét undanfarið sem áður greinir um við skipti þeirra. Þó hafa verið landamæradeilur milli Íran og Írak sem er undir hæl Sovétríkjanna.

Vopnakaup keisarans eru einnig að stórum hluta til að halda baráttu alþýðunnar niðri. Til þeirrar iðju sinnar hefur Shah keypt þumalskrúfur frá Bandaríkjunum og önnur pyntingartæki, svo ekki sé nefnt annan útbúnað s.s. 50.000 táragasstauk og 356.000 gasgrímsur sem US sendi honum nýlega (New York Times 9. júlí '78). Keisarinn beitir einnig hermönnum gegn byltingarhreyfingum við Persaflóann t.d. sendi hann fyrir fáum árum 30.000 manna herlið til Persaflóaríkisins Oman til að yfirbuga þar byltingarsinna. Shahstjórnin virkar líka eins og hið zíoníska Ísrael eins og leppur fyrir US í að hervæða og senda hernaðarráðgjafa til afturhaldsstjórna þar sem Bandaríkin eru hrædd við að skipta sér af. T.d. fékk Somoza einræðisherra í Nicaragua bandarísk vopn frá Ísrael er mest á reið fyrir hann og US

Framald á síðu 5.

# Samstaða Araba er forsenda sigurs yfir zionistum

Ræða þessi er flutt í tilefni þess að Sameinuðu Þjóðirnar tileinkuðu 29. nóvember baráttu Palestínuarabar fyrir réttmætum kröfum sínum um frelsun Palestínu undan kúgun og oki síonista. Þessi afstaða Sameinuðu Þjóðanna sýnir okkur að samstaða með réttlátum málstað palestínuaraba vex hröðum skrefum og hið rétta eðli síonismans kemur æ betur í ljós.

Í síðasta tbl. birtist grein undir fyrirsögninni "Samstaða araba er forsenda sigurs yfir síonistum" og var hún 1. hluti af ræðu sem Ástvaldur Ástvaldsson formaður Palestínunefndarinnar flutti á fundi hennar 29. nóv. sl.
Uppsetningahópur STB biður lesendur velvirðingar á því, að þá láðist að geta þess að framhald yrði af greininni. Hér á eftir fer 2. hluti og í næsta blaði birtist svo 3. og jafnframt síðasti hluti.



Yasser Arafat.

Það hefur gengið á ýmsu í viðræðum egypta og ísraelsmanna frá því þær hófust í fyrravetur. Annan daginn hefur allt leikið í lyndi, en hinn daginn hafa ásakanirnar gengið á milli og allt virst vera að fara út um þúfur. En þrátt fyrir skin og skúrir í þessum samningaviðræðum er það samt sem áður orðin staðreynd að gert hefur verið bráðabirgðasamkomulag, Camp David-samkomulagið. Þessu samkomulagi hefur verið fagnað víða á vesturlöndum og vestrænir fjölmiðlar hafa yfirleitt farið um það fögrum orðum. Minna hefur hins vegar verið gert af því að skýra frá þeim viðtökum sem samkomulagið hefur fengið annars staðar í heiminum og því síður hefur verið skýrt frá þeirri afstöðu sem Frelsishreyfing palestínumanna (PLO) hefur tekið til samkomulagsins.

Til þess að bæta svolítið úr þessum upplýsingaskorti ætla ég að taka hér alllanga tilvitnun í opinbera tilkynningu sem framkvæmdanefnd PLO sendi frá sér að loknum fundi sínum í Beirút 18. september síðastliðinn:

"Niðurstöður Camp David-fundarins sýna hættulegasta samsæri gegn aröbum síðan 1948. Þær sýna einnig hvað síonisminn og bandaríska heimsvaldastefnan hafa verið að reyna að ná fram síðastliðin þrjátíu ár. Þetta býður Sadat þeim nú upp á með því að fallast á öll skilyrði þeirra um að ganga algerlega fram hjá málstað palestínumanna og annara araba. Þess vegna lýsir PLO yfir að:

1. Niðurstöður Camp David-fundarins afhjúpa uppgjöf Sadats fyrir áætlunum Begins, sem aftur styrkja hernám síonista á palestínsku landi, Golan hæðunum og hluta af Sínai, og Jerúsalem.

2. Niðurstöðurnar fela í sér samþykki Sadats á því markmiði síonista að hafa að engu þjóðleg réttindi palestínumanna. Þær sýna einnig sameinað átak sem miðast að því að skaða málstað palestínumanna undir forystu bandarísku heimsvaldastefnunnar.

3. Þessi samningur er síðasta skrefið í uppgjafapólitík Sadat-stjórnarinnar sem kastar fyrir róða virðingu Egyptalands sem og hluta landsins og leyfir að fáni síonista sé dreginn þar að húni. Þessi uppgjafapólitík hefur einnig að engu fórnir egypskrar alþýðu og egypska hersins, sem við nú skorum á að standa gegn samsæri því sem ógnar framtíð þjóðar þeirra.

4. Með þessum samningi hefur Sadat raungert upphafleg markmið heimsvaldastefnunnar sem hafa mistekist alla tíð síðan Bagdad-samningarnir voru gerðir. Sadat lýsti því einnig yfir að hann væri reiðubúinn til að ganga að samningi með Ísrael og Bandaríkjunum sem miðaði að því að veita Bandaríkjunum yfirráð yfir öllu arabísku landi og eyðileggja stöðu frelsishreyfingar araba og stríðandi alþýðu í Afríku og Miðausturlöndum.

5. Samkomulagið styrkir einnig það áform Bandaríkjanna og síonista að einangra Egyptaland frá þjóðlegri baráttu araba og ónýta ályktanir þær sem gefnar voru út á ráðstefnum arabaríkjanna í Algeirsborg og Rabat, sem og ályktanir alsherjarþings Sameinuðu þjóðanna, óháðu ríkjanna, einingarsamtaka Afríku, múhameðstrúarlanda og annarravinsamlegra landa.

6. Sjálfstjórnaráætlun Sadats styrkir það markmið Ísraels að breyta Vesturbakkanum og Gazasvæðinu í ísraelska nýlendu og miðar að því að koma fram með Jórdaníu sem hluttakanda í þessari áætlun, nefnilega sem þvingandi verkfæri í þjónustu áframhaldandi ísraelsks hernáms. Sadat hefur einnig gengist undir afstöðu ísraelsmanna í deilunum um Jerúsalemborg og samþykkt innlimun hennar í Ísraelsríki. Hvað varðar stöðvun á stofnun nýrra ísraelskra búsvæða á herteknu svæðunum, þá er það herbragð sem miðar að því að styrkja eldri búsvæði og leyfa framkvæmd áætlunar Begins um að stækka þau sem fyrir eru og auka íbúatölu þeirra á næstu fimm árum. Þetta yrði forleikur að því að svíkja gerða samninga.

7. PLO lýsir yfir staðfestu palestínskrar alþýðu um að standa gegn og brjóta niður þetta samsæri, sem og hver önnur landsöluáform sem ætlað er að ganga á óvéfengjanleg réttindi palestínsku þjóðarinnar til þjóðlegs sjálfstæðis; réttinn til að snúa aftur til heimalands síns og stofna þar sjálfstætt ríki. PLO hafnar algjörlega niðurstöðum og samkomulegi Camp David-fundarins....

Palestínska byltingin vekur athygli á þeim hættum sem stafa frá samsæri síonista og einangrunarsinna í Líbanon. Þessir samsærismenn munu reyna að notfæra sér niðurstöður Camp David-fundarins í þeim tilgangi að auka árásir sínar á þjóðlegu öflin í Líbanon, Palestínsku byltinguna og Sýrland. Þessar hættur krefjast meiri einingar og samvinnu allra þeirra afla sem eru andstæð fyrirætlunum samsærismanna. Allar aðgerðir verða að miðast við það að auðvelda líbanskri alþýðu að vinna bug á þessum fyrirætlunum sem ógna framtíð hennar.

Sú staða sem upp er komin eftir Camp David-fundinn felur í sér alvarlegar hættur fyrir framtíð arabalandanna, alþýðu þeirra og frelsishreyfingar. Palestínska byltingin sem borið hefur ábyrgð sína með sæmd og hugrekki heitir á öll þau öfl sem láta sig framtíð og virðingu arabalandanna einhverju skipta að standa gegn samsærinu sem mun ekki verða stöðvað fyrr en fyrirætlanir Camp David-þrístirnisins hafa verið brotnar á bak aftur."

Á þessari yfirlýsingu framkvæmdanefndar PLO sést vel sú eindregna andstaða sem samtökin tóku gegn Camp David-fundinum þegar í upphafi. Það má reyndar geta þess að PLO höfðu strax þegar Camp David-fundurinn var ákveðinn sagt fyrir um það hverjar helstu niðurstöður hans myndu verða. Síðan Camp David-samkomulagið var undirritað hefur verið haldinn fjöldi funda í arabalöndunum til að skipuleggja aðgerðir gegn því og einnig til að styrkja samstöðu arabaríkjanna. Árangur þessara funda hefur verið góður og samstaða náðst um ýmsar aðgerðir, ályktanir og yfirlýsingar. Þessir fundir hafa einnig verið mikilvægur þáttur í baráttunni gegn tilraunum Bandaríkjanna og Ísrael, sem beinast að því að fá fleiri arabaþjóðir til að undirrita Camp David-samkomulagið.

Síðan samkomulagið var undirritað hefur verið mikið um verkföll og uppþot í Ísrael og á herteknu svæðunum til að mótmæla því. Sem dæmi má nefna allsherjarverkfall í Jerúsalem, mótmælaaðgerðir í borgunum Ramallah og Tulkram, og aðfarir að lögreglustöðvum, herbækistöðvum og opinberum byggingum t.d. í Jenin, Nablus, Al Hamri og Bireh. Víða hefur slegið í bardaga milli mótmælenda og ísraelskar lögreglu og hers. Fjöldi fólks hefur verið handtekinn og hnepptur í fangelsi. Borgarstjórar ýmissa stærstu borganna á Vesturbakkanum hafa verið óhræddir við að lýsa yfir skoðunum sínum á Camp David-samkomulaginu. M.a. réðist borgarstjórinn í Nablus, sem er stærsta borgin á Vesturbakkanum, nýlega opinberlega á Sadat fyrir að "fjarlægjast palestínska og arabíska alþýðu." og við sama tækifæri sagði hann einnig: "samkomulagið mun ekki færa frið yfir miðausturlönd. Það mun auka deilurnar."

Borgarstjórinn í Ramallah, Karim Khalaf lýsti því yfir í Ramallah sem er 20 þúsund manna borg kristinna Palestínumanna norður af Jerúsalem að: "Við erum ákaflega vonsviknir vegna þess að samkomulagið sniðgengur það vandamál sem hér er um að ræða, þ.e.a.s. Vesturbakkann en ekki Sínai. Vandamálið er fólk en ekki sandur."

Arabaríkin verða að veita palestínsku byltingunni allan hugsanlegan stuðning, jafnt efnahagslegan, pólitískan og hernaðarlegan. Þessi stuðningur verður að veitast í gegnum PLO sem er eini löglegi fulltrúi palestínsku þjóðarinnar bæði innan og utan herteknu svæðanna. Öll arabaríkin verða að vernda þjóðareiningu palestínumanna og koma í veg fyrir íhlutun í innri málefni þeirra.

Á framansögðu er það grundvallaratriði byggt, að ekkert arabaríki geti unnið eitt sér að lausn vandamálanna fyrir botni Miðjarðarhafs án tillits til lausnar palestínuspurningarinnar eða deilu araba og síonista almennt.




Palestína.... Palestína við munum berjast þar til fullur sigur vinnst yfir síonistunum.



Merkava-skriðdrekar-framleiddir í Ísrael.



Ísraelskir fallbyssu-bátar, fluttir út til Suður - Afríku.

# Opið bréf frá KFÍ/ML til EIK(m-l)

6. Greining "KFÍ/ML" á þúsundum -, verslunar og skrifstofufólks er alröng og beinlínis klofningsbrölt. Hún er léleg framleiðsla kreddumeistara og í engu samræmi við raunveruleikann og fræðikenningu marx-lenínismans. Auk þess lítið þið svo á að þetta fólk tilheyri millihóp sem veiflast milli verkalýðsstéttar og borgarastéttar(!) í afstöðu sinni og sé hluti heildar sem er afturhaldssöm (smáborgarastéttin).

7. "KFÍ/ML" segir EIK(m-l) rugla saman hentistefnu(tækifæristefnu)og endurskoðunarstefnu(fölsun marx-lenínismans). Rangt! Hvort tveggja er nátengt. Við segjum KSML hafa verið endurskoðunarsinnuð hentistefnusamtök vegna þess að grundvöllur hægri og "vinstri" hentistefnu er endurskoðunarstefnan og borgaraleg eða smáborgaraleg stéttarafstaða, KSML gerðu hreint alls ekki eingöngu "taktísk"mistök, þau endurskoðuðu marx-lenínismann og börðust hart gegn honum, þrátt fyrir yfirlýstan stuðning við hann og alla byltingarfrasana.

8. Svíðjóðarlið KSML sem tók þátt í að eyðileggja sænsku marx-lenínísku hreyfinguna á skipulagðan hátt var ekki "vaxtabroddur marx - lenínismans" hvorki þar né hér á Íslandi. Þetta fólk og skoðanabræður þeirra hér KHML /KSML sem heild voru hemill á kommúnísku hreyfinguna og samtökin áttu engan tilverurétt hvorki hér né í Svíþjóð. Klofningur milli EIK (m-l) og þeirra sem stunduðu þessa iðju eða neita að gera upp við stefnuna og starfið, var og er eðlilegur og ekki óæskilegur eða harmsefni. EIK(m-l) mun aldrei viðurkenna réttmæti starfs og stefnu "baudeista" (fylgismenn KFMLr í Svíþjóð og KSML 1971-1974, heldur líta svo á að uppgjör við hvort tveggja sé ein meginforsendan fyrir sameiningu EIK(m-l) og "KFÍ/ML".

# Svar.

Í 6. lið talið þið um greiningu KFÍ/ML á afgreiðslu, - verslunar og skrifstofufólki. Því miður er greining okkar óþekkjanleg í ykkar meðförum. Því viljum við vinsamlega biðja ykkur að skýra frá því um hvaða greiningu þið eruð að tala og þá í leiðinni hvar hún komi fram: Það þýðir lítið að fara út í rökræður án þess að setja viðfangsefnið nokkurn tíma fram.

Í 7 lið reynið þið að hrekja þá staðreynd að í málflutningi ykkar kemur það berlega í ljós að þið þekkið ekki muninn á hentistefnu og endurskoðunarstefnu. Til þess að rökstyðja fyrri villur grípið þið nýjar forsendur úr lausu lofti, og fáið fram þá niðurstöðu sem þið óskið eftir. Það er rétt að grundvöllur hentistefnunnar er smáborgara og /eða borgaraleg stéttarafstaða.

En að halda því fram að endurskoðunarstefnan sé grundvöllur hentistefnunnar er alveg út í bláinn. Reynið að rökstyðja þessa fullyrðingu og þið munuð sjá að hún er röng.

Endurskoðunarstefnan er meðvituð pólitík stéttsvikaranna til þess að eyðileggja byltingarbaráttu verkalýðsins. Hentistefnan innan kommúniskarar hreyfingar þarf ekki að þýða algert svik við málstað verkalýðsins, hún getur hins vegar leitt til endurskoðunarstefnu. En sá möguleiki er einnig fyrir hendi að hentistefnumenn geri upp við hentistefnu sína og taki aftur upp réttan málstað verkalýðsstéttarinnar og marxismans-lenínismans.

Í 8. lið ræðið þið um forsöguna. Í þessu sambandi teljum við rétt að benda ykkur enn einu sinni á það að afstaðan til starfs og stefnu KFML(r) í Svíþjóð var frá upphafi mikið deiluefni innan KSML Þeim deilum lauk með klofningi samtakanna. Fylgismenn KFML(r) á Íslandi stofnuðu þá samtökin KSML(b) Eftir stóð KSML, fyrstu marxlenínísku samtökin á Íslandi í 40 ár og höfðu í meginatriðum gert upp við þá hentistefnu sem barst frá KFML(r). Á þessum tíma störfuðu flestir stofnendur EIK(m-) í Fylkingunni og leyfðu sér að kalla þá hálf trotskíísku samsuðu marx-lenínísku. Með þessari tregðu sinni til að gera upp við stefnu Fylkingarinnnar og árásum á hin nýstofnuðu marxlenínísku samtök töfðu þessir menn uppbygginingu marx-lenínísku hreyfingarinnar á Íslandi.

Með stofnun EIK(m-l) árið 1975, sem er klofningsaðgerð, unnu þessir menn skemmdarverk á marx-lenínískri hreyfingu á Íslandi.

# 4 Hluti.



# Íran:

Framhald af síðu 3.

gat ekki stutt hann opinberlega Gagnkvæm samskipti fasistaríkjanna tveggja Íran og Ísrael eru mikil. Íran flytur út olíu til Ísrael, samvinna er um verslun, flugsamgöngur, hernaðarlega þjálfun, tæknilega aðstoð og annað slíkt. Allt er þetta mjög hagkvæmt fyrir US auðhringana. Eins og Carter sagði um tengslin milli US og Íran:"Við lítum á styrk Íran sem hluta af eigin styrk og Íran lítur á okkar styrk sem sinn".

## Leiðir byltingarbaráttan í Íran til sósíalisma?

Ljóst er að yfirgnæfandi meirihluti írönsku þjóðarinnar vill byltingu. Í landi sem telur 35 miljónir íbúa hafa yfir 15 miljónir tekið beinan þátt í bardögum á götunum.

Þetta hefur leitt til alvarlegra hugleiðinga um til hverra ráða risaveldin muni grípa, sérstaklega Bandaríkin. Mun US gera hallarbyltingu, fella Shah og setja í hans stað aðra sér vilhalla strengbrúðu sem myndi mögulega slá blindu í augu lítt meðvituðum andstæðingum keisarans. Þetta athæfi US er þekkt frá Víetnam. Þegar hafa verið reyndar slíkar leiðir við uppreisnarmenn í Íran, þeim lofað kosningum, háttsettir menn neyddir til að segja af sér, verkamönnum í verkfalli boðið yfir 100% kauphækkun o.s.frv. en byltingarsinnaðar kröfur fólksins hljóma aðeins hærra eftir á og verkamennirnir líta á kauphækkunartilboðin sem mútur. Barátta fólksins er pólitísk og hún stendur um að fella ekki aðeins keisarann sjálfan heldur og klíku hans, áhrif hennar og losa Íran að eilífu úr höndum erlendra heimsvaldasinna.

Það sem ekki tókst sem skyldi í Nicaragu þegar Sandinistahreyfingin gerði byltingartilraun þar í haust var að virkja fjöldann til baráttu. Þar var fyrir hendi sterkur byltingarsinnaður kommúnistaflokkur en honum tókst ekki að fá þann fjölda sem tók afstöðu með honum gegn Somoza til að taka upp baráttu til valdabyltingar.

Í Íran er aðstaðan önnur. Þar hefur risið upp geysilega víðtæk fjöldabarátta og byltingarandinn er mjög sterkur. Fjöldahreyfingin er samfylking margra stjórnmálaflokka og jafnvel nokkrir Múhameðstrúarleiðtogar hafa ítök í leiðsögn baráttunnar. Það sem er mikilvægast fyrir þessa fjöldabaráttu er að stofnaður verði einn sterkur kommúnistaflokkur sem hafi í höndum sér leiðsögn og miðstýringu baráttunnar. Flokkur sem leiðir byltinguna til sigurs og reisi úr rústum auðvaldsríkisins - alræði öreiganna.

Í skoðanakönnun nú fyrir skömmu sem gerð var um andstöðuna í Íran, kom í ljós að af 150 stjórnmálaflokkum sem tóku þátt í byltingarbaráttunni voru 120 marxískir-lenínískir. Það sýnir vel hversu styrkur þeirra yrði mikill ef þeir sameinuðust og einnig hversu marxisminn-lenínisminn á miklu fylgi að fagna í Íran. Í landinu standa nú yfir víðtækar umræður milli marxistanna lenínístanna innbyrðis, sem gera sér fulla grein fyrir mikilvægi sameiningarinnar.

Hvort byltingin verður sigursæl og Íran verði sósíalískt ríki veltur á því hvernig marxistunum - lenínistunum vegnar í þessum umræðum sínum um leiðsögn byltingarinnar.

Augu heimsins beinast nú að Íran sem er orðinn miðdepill byltingarbaráttunnar í heiminum.) Hver sigrar - Shah fasisti og herrar hans bandarísku. heimsvaldasinnarnir eða verkalýðurinn í forystu fyrir allri alþýðu manna í Íran.

Motmælaaðgerðir gegn Keisaranum í Íran dagana 7 og 8 sept. s.l. í þeim þátt alls u.þ.b. 7 1/2 miljón manns. Andstaðan gegn keisaranum fer vaxandi.

# Aðalfundur F.J.N.

Framhald af forsíðu.

að þetta væri ekki rétt leið til stuðnings frelsishreyfingum hvar sem væri í heiminum. Varðandi það að stjórnin sendi Samfylkingu 1. maí 10.000 krónur henni til styrktar þá horfir málið öðru vísi við, því að grundvöllur Samfylkingar 1. maí samrýmist í öllum aðalatriðum þeirri pólitík sem félag jarniðnaðar nema stendur fyrir. Var tillagan að lokum samþykkt einróma.

Varðandi stefnuna í kjaramálum kom m.a. fram mikil gagnrýni á fréttatilkynningu sem Framkvæmdastjórn INSÍ sendi fjölmiðlum fyrir stuttu. Voru menn almennt sammála því að aðgerðir ríkisstjórnarinnar 1. des. væru svik við verkafólk og ekki væri neinn tiltakanlegur munur á kjaraskerðingum þessarar ríkistjórnar og hægri stjórnarinnar. Töluvert var rætt um samræmingu taxta félagsins og ýmis vandamál í því sambandi. Talað var um að félagið yrði að berjast fyrir því að kaup nema væri í samræmi við kaup sveina, en ástandið er þannig í dag að nemar taka kaup samkvæmt lægsta taxta sveina sem er alls ekki borgað eftir.

Næst á dagskrá var kosinn ný stjórn félagsins. Nokkrir gengu út vegna þess að þeir eru að ljúka námssamning. Formaður var kosinn Gísli Hjaltason, auk hans voru kosnir átta manns í stjórn.

Síðan var stutt kynning á sögu, starfi og stefnu INSÍ flutt af formanni og varaformanni INSÍ.

Að lokum var blað félagsins Deiglan rædd undir liðnum önnur mál. Var aðallega rætt um hvernig bæri að skipa í ritnefnd blaðsins og var komist að þeirri niðurstöðu að stjórnin myndi fela einum úr stjórninni að bera ábyrgð á blaðinu. Var það almennt álit manna að fundurinn hefði heppnast vel og sýna ljóslega að töluverður áhugi er meðal iðnema um kjör þeirra og hagi. Einn helsti meinbugurinn á starfi iðnema hefur verið sá að þeir sem hafa verið kosnir til að leiða baráttuna hafa ekki gegnt störfum sínum sem skyldi. Ekki hefur heldur verið til nothæf baráttulína innan hreyfingarinnar. Stéttasamvinnustefnan hefur verið ríkjandi í öllu starfi og stefnu Iðnemasambandsins. Stjórn sambandsins hefur látið forystu ASÍ teyma sig á asnaeyrunum . Iðnemahreyfingin verður að standa á eigin fótum í baráttunni fyrir samnings- og verkfallsrétti, því einskis er að vænta úr náðarfaðmi stéttasamvinnupáfana í ASÍ.





Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

**Stéttabaráttan**



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.

STÉTTABARÁTTAN -kemur út vikulega- Sími: 27810. Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



Veggblöð í Kína kröfðust sem kunnugt er að Teng Hsiao-Ping yrði forsætisráðherra Kína. Vestrænar fréttastofur gripu þetta á lofti og spáðu "mannaskiptum í Kína" og skrifuðu um "valdabaráttuna þar". Teng vísaði þessu algerlega á bug í viðtali við bandarískan blaðamann nýlega. Hann sagðist vera of gamall til þess og alger eining ríkti í miðstjórn flokksins undir forystu Hua Kua-Feng.
Önnur gagnrýni á veggblaði beindist gegn Maó. Vestrænar fréttastofur gripu þetta ekki síður á lofti og Mogginn fór jafnvel að hafa samúð með fjórmenningunum sem "hinum einu sönnu maóistum". Teng vísar allri þessari gagnrýni á bug í viðtali þar sem hann sagði að hlutur Maós í kínverskri sögu væri ómetanlegur og að án hans væri ekkert nýtt Kína til.
Teng bendir á í viðtalinu að á veggblöðunum sé fjallað um margvíslegustu hluti og ekki sé alltaf allt rétt sem á þeim standi, Samt er óumdeilanlegt að forysta flokksins hvetur til opinskárrar umræðu þar sem allar skoðanir fá að koma fram.
Það er óvanalegt í kínverskum stjórnmálum að háttsettir menn ræði opinbert um málefni í Kína eins og Teng hefur gert undanfarið. Þetta er hinsvegar aðeins eitt dæmið um að stjórnmál í Kína eru opinskárri nú heldur en í tíð fjórmenninganna og þessi þróun verður sýnilegri eftir því sem uppgjörið við þá dýpkar.

# TENG HSIAO-PING: "Fjöldinn verður að njóta lýðræðis"

## „Án Maós væri ekkert Nýja-Kína."

Marxisminn-lenínisminn, kenningar Maós eru hugmyndafræðin sem leiðir starfið við að færa í nútímahorf fjóra aðal þætti þjóðfélagsins, sagði Teng Hsiao-Ping í viðtali við ameríska rithöfundinn David Novak.

Varaforsætisráðherrann sagði líka að hlutur Maós í sögu Kína væri ómetanlegur. Kínverjar vita "að án Maós væri ekkert Nýja-Kína til". Í starfi okkar að færa fjóra aðalþættina til nútímahorfs verðum við að fylgja og nota kenningar Maós í ríkari mæli og nákvæmari máta. Pólitíska lífið í landinu á að vera líflegt en æsingalaust, sagði hann meðal annars.

Teng Hsiao-Ping svaraði einnig spurningum um alþjóðlega ástandið og samskipti Bandaríkjanna og Kína.

### FJÖLDINN VERÐUR AÐ NJÓTA LÝÐRÆÐIS

Teng Hsiao-Ping svaraði fyrir nokkru spurningum japansks stjórnmálamanns, Sasaki, um innanlandsástand í Kína.

Teng fjallaði um áhuga annarra þjóða á Kína núna. Hann sagði að "Kína væri núna traust og sameinað land þar sem allir allt frá æðstu til lægstu eininga einbeittu sér að starfinu við að færa í nútímalegt horf fjóra aðalþætti þjóðfélagsins, iðnað, landbúnað, landvarnir, vísindi og menntun".

Hann svaraði síðan spurningum um atvikið á Tienanmintorginu í Peking, sem umtalað úr hefur verið. Hann sagði: Áður var tekin röng afstaða til þessara atburða. Flokksdeildin í Peking hefur hinsvegar endurskoðað þessa afstöðu og staðfest byltingarsinnað eðli þessara aðgerða sem fjöld inn stóð fyrir til að heiðra minningu Chou En-Læ og til að sýna fjandskap sinn í garð fjórmenninganna. (Fylgismenn fjórmenninganna létu sem kunnugt er leysa þennan fund upp. Innsk. Stb.). Þessi afstaða flokksdeildarinnar í



Teng Hsiao Ping

Peking er studd af miðstjórninni. Flokkurinn, herinn og fólkið er einhuga bak við þessa afstöðu sagði Teng síðan.

Varaforsætisráðherrann vitnaði síðan í Maó þar sem hann segir að ranga afstöðu verði undir öllum kringumstæðum að leiðrétta. Atburðirnir við Tienanmin-torgið voru metnir ranglega og þessi mistök varð vitanlega að leiðrétta. Önnur atriði en þessi sem líka voru ranglega metin verður einnig að leiðrétta út frá þeim sjónarhóli að leita sannleikans af staðreyndum. Það að leiðrétta mistök þegar þau eru uppgötvuð er mælikvarði á heiðarleika okkar sagði Teng. Það er eina færa leiðin til að koma á ró í landinu og sameina alla þjóðina til stórra átaka í því starfi að færa þjóðfélagið til nútímalegs horfs.

Varðandi veggblöðin sagði Teng að "þau sýndu hið trausta ástand sem ríkti í landinu. Það að festa upp veggblöð er stjórnarskrárbundinn réttur hvers kínverja. Við höfum engan rétt til að neita neinum um þennan rétt eða til að gagnrýna fjöldann fyrir að nota lýðræðið og skrifa veggblöð".

"Fjöldinn verður að fá að segja álit sitt og gagnrýna. Skoðanir fjöldans er ekki alltaf þrauthugsaðar og við getum ekki gert kröfu til þess að menn hafi fullkomlega rétt fyrir sér. Það er ekki hægt og það er ekkert rangt við það. Það er undursamlegt að sjá hæfileika mikils meirihluta kínversku þjóðarinnar til að greina rétt frá röngu og samviskusamlega umhyggju þess fyrir þróun landsins. Enda er fjöldinn hertur af hinni miklu baráttu í menningarbyltingunni. Fjöldinn krefst öryggis og einingar og metur málin út frá heildinni. Hann hefur sínar efasemdir um einstök mál en engir brestir eru í einingunni um að koma á ró í landinu og starfa af fullum krafti að hinum miklu verkefnum sem bíða, það er að segja að færa fjóra aðalþætti þjóðfélagsins í nútímalegt horf".

# Skoðunarferð Vesturbæjarhóps S.H.A.



Þangað liggur beinn og breiður vegur.

Laugardaginn 9. desember tóku félagar í Vesturbæjarhóp Samtaka herstöðvaandstæðinga sér ferð á hendur til Keflavíkur. Erindið var annarsvegar það að athuga verksummerki mengunar frá herstöðinni og hinsvegar að hitta félaga úr hópnum í Keflavík.

Vesturbæjarhópurinn vinnur nú að því að safna efni um mengun frá herstöðinni og hyggst gefa út t.d. í dreifiriti. Var þessi ferð liður í því starfi.

Tveir félagar úr Keflavíkurhópnum tóku að sér leiðsögn um "verndarans"svæði. Farið var inná það og m.a litið á öskuhauga "verndarans". Þeir eru á bersvæði og er ruslinu sturtað innan girðingar nokkurar og síðan fýkur það til og frá um nágrennið. Einnig var hugað að afstöðu vatnsbóls Njarðvíkinga og olíugeyma "varnarliðsins". Vatnsbólið virðist fá vatn undan vallarsvæðinu og hefur komið í ljós olíumengun í því. Eftir að hafa skoðað svæðið var haldið á fund félaganna í Keflavík og skiptust hóparnir á skoðunum yfir kaffi.

Mikið hefur verið talað um mengun af völdum hersins undanfarið, en lítið hefur verið gert raunhæft í málunum Alþingismenn hafa gaspra um þetta mál í haust, en eins víst er að ekkert komi út úr þeim umræðum. Starfsmenn sveitarfélaganna þarna í kring hafa bent á þá hættu sem öllu atvinnulífi stafar af menguninni. En það er eins og tala við stein að fá yfirvöld til að gera eitthvað raunhæft í málinu.

Þess vegna hafa ýmsir herstöðvaandstæðingar ákveðið að vekja eins mikla almenna athygli á þessu máli og unnt er, eins og að framan sögðu er þessi ferð liður í þeim undirbúningi. En betur má ef duga skal, þessvegna hvetjum við alla sem hafa áhuga á því að kynna sér þessi mál að taka þátt í starfi herstöðvaandstæðinga.

# Fjármál stúdenta

### Lánasjóður.

Lánasjóður íslenskra námsmanna (LÍN) er ætlað að veita námsmönnum lán við háskóla hér og erlendis eða sambærilegt nám. Við útreikninga á lánum úr sjóðnum er gerð fjárþörf námsmanns, sú þörf er miklu lægri en fjárþörf venjulegs verkamanns. Framfærslukostnaður er reiknaður fyrir hvern námsmann fyrir sig, þannig lækkar framfærslukostnaður ef þú býrð í foreldrahúsum eða maki hefur tekjur, en framfærslukostnaður hækkar ef þú átt börn. Sjóðurinn lánar 85% af þessari fjárþörf, en stefnt er að 100% láni eins og segir í lögum.

Samkvæmt fjárlagafrumvarpinu þá er lánasjóðnum ætlaðir 2,6 miljarðar en til að geta borgað 85% lán þá þarf hann 700 miljónir til viðbótar. Og ekki nóg með það, til að geta lánað barnafólki þarf 200 miljónir til viðbótar þannig vantar 900 miljónir til lánasjóðsins næsta ár.

Níska ríkisins gagnvart lánasjóðnum er óskiljanleg vegna þess að þetta fé er arðbærasta fjárfesting ríkisvaldsins því lánin eru vísitölutryggð. Ríkið væri þarna að baktryggja sig með því að lána þetta fé út sem kemur til baka seinna. En svo hugsar kapítalið stutt að það kann ekki að bjarga sjálfu sér.

### Félagsstofnun stúdenta.

Félagsstofnun stúdenta rekur matsölu, Stúdentagarða og Hjónagarða, skrifstofu og aðra félagslega starfsemi. Stofnunin bað um 64 miljónir fyrir næsta ár en hefur undanfarin ár fengið um 30% af beðinni upphæð. Samkvæmt fjárlagafrumvarpinu þá á félagsstofnun að fá 19 miljónir til reksturs. Fyrir áramót þarf hún að borga um 50 miljónir í afborganir af skuldum t.d. til ríkisbanka, rafmagnsveitu ríkisins. Þannig að allt fé rennur beint til ríkisins aftur. Einnig má benda á að ríkið borgar með hverjum matarbita sem bankamenn og læknar eta og því skyldi ekki ríkið hjálpa þeim að borða sem minna mega sín.

### Stúdentagarðar.

Gamla og Nýja Garði var lok-

Framhald á síðu 2.